ur ſijnum hia, Andſkotiñ Alſku ſlær, eñ hefur Snoru ſnwna, ſnoggliga þeim til hwna, ſem fara med Fals og Daar.

6. Otrw ſiñ egeñ Herra, ætijd um Hoalſiñ ſlo; eingiñ fieck af þvi verra, eñ ſa Meinlauſum bio, Forrædi, Fals og Viel. Judas þvi Heinging hendte, hañ ſolſkum til ſijn bendte, eins og Achitophel.

7. Fiegyrndin Judas felldi, ſyrſt var hañs Adtekt ſu, Guds Son Gydingum ſelldi, gleūndi þvi Aru og Trw, ſo til uñ ſijder gieck; kaſtadi keyptum Audi, þa kvaldi Sorg og Daudi, Huggun alls eingva fieck.

8. Undirroot allra Laſta, Agirndin kølluð er, Fromleika fra ſier kaſta, Fiarplogs Meñ Agiarner, ſem frekliga elſka Fied; Audi med Okri ſafna, Andligri Bleſſan hafna, eñ ſetia Saal i Ved.

9. Añadhvert er i vonum, Auduriñ fagur nu hafnar hier, Ellegar honum, hryggur burtkaſtar þu, þa Daudiñ þreyngir ad, Agyrndin ſtæpt ſvelgir, af þvi Saalena velgir, i kølldum Kvalaſtad.

10. Falſi og Fiegirnd ræingri, forda þier Saal mijn blijd, ſo mæter ei Ogn nie Angri, þa ad ſer Daudans Tijd, vird lijtils Veralldar Plog, hver ſa ſier lynda lætur, þad lienar Drottiñ mætur, ſa hefur alls Nægta nog.

11. Opt Jeſus ædur hafdi, Amiñing Judas giort, Hreckvijſin Hiartad vafdi, hañ hjellt þad einſkins vert, nu kom þar eiñin ad, Tilſogn ha

tade

tade hreina, Huggun fieck þvi ei neina, varastu Vijti þad.

12. Eñ hvad framleiddi-hañ illa, aadur Lijfernid sitt, þessi þo var hañs villa, verri eñ allt añad hitt, ad hañ Orvænting med, Saal og Lijf seiti i Vanda, Synd a mot heiløgum Anda, helld eg hier hafi skied.

13. J Drottni ef villtu deyia, Drottni þa lifdu hier, til ills laat ei þig teygia, Ord Guds sie kiærast þier, sæll er sa so vid bijst, eñ ef þig Ofall hendir, aptur i tijma vendir, undandrag Jdran sijst.

14. Brot þijn skallt bliugur jaata, eñ bid þo Gud um̃ Raad, af Hiarta hryggur graata, enn heilnæm þiggia Raad, um̃fram̃ allt þeinktu þo Son Guds bar þijnar Syndir, og so þu Myskun findir, saklaus fyrir sekañ doo.

15. Drottiñ laat mig ei dyllast, diarfliga Syndir vid, þo hier um̃ stund megi hyliast, Herra trur þess eg bid, nær Heimi fer eg fra, Orvænting ei mier grandi, Ord þitt og Sañleiks Andi, Hiarta mitt huggi þa.

# 17. Psalm.

## Um̃ Leirpottarans Akur.

Ton: Fadir a Himna Hæd.

So sem fyrr sagt er fra, Sylfur Peniñga þa, hverier loks Judas hrelldir, Høfud-Prestarnir selldu.

2. Og keyptu eiñ til sans, Akur Pottmakarans, þar mœ fullt Frelsi hafa, Framandi meñ ad grafa.

3. Par fiñst ein Pyding fijn, þess giœttu Sœla mijn: Af Guds œsettu Rœdi, um̃ þad Zachrias spœdi.

4. Lijk.st Leirkiera Smid, Lijksamur Drottiñ vid, sem fyrr Esaias sagdi, sialfur þad riett wt lagdi.

5. Af Leir med Lijfsins Krapt, liet hañ Mañ kynid skapt, hrein Kier til heidurs setur, hin öñur lœgra metur.

6. Drottiñ eiñ Akur œ, er honum falur sœ; Minstu hañ Myskun heitir, mœddum Lyd huggun veitir.

7. JEsus eiñ er sa Mañ, sem Akuriñ keypti þañ, eñ hans Blóddropar bliidir, Borgunar giálldid þydir.

8. Framandi Folkid þad, sem fieck ei neiñ hvildar stad, erum vier Sorgum setnir, af Syndugu Edli getnir.

9. Illskuñar Edlid vort, Utlenda hefur giort, os fra eilijfri Gledi, J Adams Falli þad skiedi.

10. Sœlin i Utlegd er, œ medan dvelst hun hier, i Holldsins Hreysi naumu, halldiñ Fœngelsi aumu.

11. Daudiñ med dapri swt, dregur um̃ siidir wt, hana, þa Hreysid brotnar, Holldid i Jordu rotnar.

12. Eins og wtkastad Hrœ, ef eg riett skynjad.

jad sæ, Hialparlaus Saal mꝫ heita, Hvijls dar kañ sier ei leita.

13. Hættu og Hormung þa, Herrañ miñ JEsus sæ, Ond vora af Ast og Milldi, vr Utlegd kaupa villdi.

14. Fadiriñ fallt þad liet, Fridarstad Sæalum hiet, ef Sonuriñ Gialld þad greiddi, sem Guds Riettlætid beiddi.

15. Opnadi Siodiñ siñ, Sonur Guds JEsus miñ, Hwdstryktur Kvaliñ Kryndur, a Krossi til Dauda pijndur.

16. Blooddropar dundu þar, Dyrasta Gialld þad var, Keyptañ Akur þvi eigum, ohræddir deyja meigum.

17. Hier þegar verdur Holld, hulid i Jardar Molld, Sæalin hryggdarlaust hvijlir, Henni Guds Myskun skijlir.

18. Eñ þu skallt ad þvi gæ, Akursins Grefts ran þa, eingvir utan þeir feingu, i Jerusalem geingu.

19. Christnin Guds hier uñ Heim, heitir Jerusalem, i hana iñkomast hlijtur, hver sem Myskunar nytur.

20. J heñi hver eiñ sa er, a JEsum trwir hier, Skijrdur, og alla Vega, Jdran giorir Daglega.

21. Okvijdiñ er eg nu, af þvi eg hef þa Trw, Myskun Guds Sæalu mijna, mun taka i Voktun sijna.

22. Hvernin sem Holldid fer, hier þegar

 Lijfid

Lijfid hver, JEsus i Um̃sioon þiñi, Ohætt er Sæl'u miñi.

23. Jeg lofa Lausnariñ þig, sem leystir wr Utlegd mig, Hvijld næ eg Naadar spakri, nu i Myskunar Akri.

24. Þu gafst mier Akuriñ þiñ, þier gief eg aptur miñ, Ast þijna aa eg rijka eigdu mitt Hiartad lijka.

25. Eg gief og allañ þier, æ medan toori eg hier, Avoxtiñ Jdiu miñar, i Akri Christni þiñar.

26. Eins bid eg aumur Þræll, ad uñir þu JEsus sæll, Lidnum Lijkama mijnum, Legstad i Akri þijnum.

27. Hveiti-Korn þecktu þitt, þaa upprijs Holldid mitt, i Bindini Barna þiña, Blessun laat þu mig fiña, Amen.

## 18. Psalm.

### Um̃ Aklogun Gydingaña fyrir Pilato.

Ton. Sælir eru þeim sialfur Gud.

Arla sem gløgt eg greina vañ, med Guds Son bundiñ fara, Prestarnir, so ad piindist hañ, til Pilatum Land-stiornara, i Þijnghws iñ bad sama siñ, sagt er þo einginñ kiæmi, svo ecki meir saurgudust þeir, sia hier Hræsniñar Dæmi.

2. Jñgang uñ Hwsdyr Heidingians, hielldu þeir Synd bañada, Eñ saurgast á Bloodi Saklauss

lauſs Mañs, ſyndiſt þeim eingvoñ Skada, Heims Bornum hier, Höirding er, Aumſtodd-um Hialp ad veita. Guds Ords Forakt, Agyrnd og Pragt, eingin Miſgiord ſkal heita.

3. Pilatus ſem þad formerkt fiek, fyrſt ei þeim Metnad ſætti, aan dvalar ſialfur wt þvi gieck, Embættis ſkylldu giætti, Sakargipt þa, vill fulla faa, framborna af þeirra Muñi, Daarydiñ fliot, Drambſemi mot, Domariñ fiña kuñi.

4. Laat þier ei vera Aſmaan ad, ef þu villt froomur heita, af Pilato lioſt ad læra þad, ſem Lofligt er eptir ad breyta, Raxnalætid hans, þeſſ Heidna Mañs, hallt þier Minkun tvofallda, þeim midur fer, eñ honum hier, hver vill þañ Chriſtiñ hallda?

5. Allitid ſtoort og Hefdar Haatt, hrædaſt ſkyllz dir þu ecki, Sañleikans giæta ætijd aitt, eingin Kiaſſmaal þig blecki. Hrugirnd liot, Hotmod-ug Hoot, hæfir ſijdſt yfirmoñum, Dramblaat-um þar, þu gief Andſvar, þo byggt af Rokum ſoñum.

6. Olldungar Juda allra fyrſt, upp-baaru Søk þrefallda, Folkinu þeiſſi frams-ſnijr viſt, fyrirbydur ad giallda, Keyſ-araňs Skatt, þad ſegium vier ſatt, ſialfur vill Kongur heita, og Chriſtur ſa, ſem koma aa, Kvittun og Frid ad veita.

7. Hier koma fram þaug riettu Rok, Rædu, og Panka miña, þier JEſus giefin var Þreſolld Sok, þad kañ eg glogt ad ſiña, Þrefalldlig

Sekt, mig þiaadi frekt, þar um̃ eg klagaſt mætti, Prefallda Stygd, og þunga Lygd, þu leidſt med ſoddum Hætti.

8. Fraſnwid Guði allt mitt er, Edlid og Liif ſæancyta, ødrum þvi gief eg opt af mier, ill Dæmi ſo ad breyta, eñ hier a moot, med Elſku hoot, øll Guds Born riett þvi trua, fra Bølvan Deyd, Dioſli og Neyd, Drottiñ ried Lydnum ſnua.

9. Guði ætti eg ad greida frij, Giallo Hlydni og Packarſkylldur,. Naangliga hef eg halldid þvi, høndlad ſem Præll ogilldur, Audſvelpnin þ.in, fyrir øllum ſkyn, Aſtſemdar Herraſi kiæri, þu baudſt: Giefid (gafſt ſialfur med) hvad Guds og Keyſarans væri.

10. Sañliga hef eg hrokad mier, hærra eñ vera ſkylldi, Bod og ſkipun mijns Herra hier, halldid t minſta gilldi, Kongdoom i Heim, og Heidri þeim, hafnadir þu og flydir, Hætignin þijn, a Himnum ſkijn, hun mun birtaſt um̃ ſijdir.

11. Nægdur varſtu fyrir Naanga Søk, Riettlæti Jeſu milldi, uppa þad øll mijn Illſku Nøk afplaanud verda ſkylldi, Aklogun ſu, ſem þoldir þu, þeſſ bid eg Herraſi froomi, ſie mitt Forſvar, þa fiñſt eg þar, fyrir þeim ſtranga Domi, Amen.

## 19. Pſalm.

### Jaatning Chriſti fyrir Pilato. Ton: Mitt Hiarta hvar til Hryggiſt þu.

Gydingar høfdu af Hatri fyrſt, hardlega

ga klagad Jesum Christ, sem ædur sagt er fra, Landsdomariñ giørdi ad gaa; gløgt hvad þyddi Frambiurdur sa.

2. Akløgun fyrsta Andlig var, um̃ þad Pilatus siñti ei par, øñur um̃ Skylldu Skatt, hañ vissi vel þeir søgdu ei satt, soddan Maalum þeigiandi hratt.

3. Eñ sem þeir nefndu Kongiñ Christ, kom hønum þa til Hugar fyrst, hvad ædur heyrdi og nam, af Judum mællt um̃ Messiam, ef mætti skie þad kiæmi nu fram.

4. Pilati Siñi i sumum fiñst, sem um̃ Guds Dyrkun hyxa miñst, Hofdingium Hræsna tijtt, Undersaata Frelsid frijdt, Fiaarplogs giarnir rækia nu lijtt.

5. Hirdstioriñ spurdi Herrañ þa, hvert hañ sie Juda Kongur sa? Eñ Jesus aptur tier: Talar þu so af sialfum þier, eda søgdu adrir þvilijkt af mier.

6. Pa vard Pilati Pelid kallt, þig hat ar sagdi hañ Folkid allt, hvad illt hefur þu giørt? Aptur Jesus ansar bert, er þad næsta Peinkingar verdt.

7. Mitt Rijki er ecki hiedan af Heim, hart mundi añars mooti þeim, strijda miñ Maktar Her, sem nu mig selldu i Naudir hier, svo nædi ecki Gydingar mier.

8. Pilatus aptur ansa vañ, Ertu þo Kongur sagdi hañ? Jaatade JEsus þvi,

hijngad

hijngad barst eg Heimiñ i, ad herma, skylldi eg Sañleikiñ frij.

9. Hver af Sañleiknum sialfur er, sa mijna Roddu heyrir hier, Hræsnis Svør hiñ til sañ, hvad er Sañleikur sagdi hañ? svo gieck burt med Urskurdiñ þañ.

10. Hier mættu Saal mijn heyra fyrst, Herrañ JEsus er Kongur vijst, þo ecki ad Heimsins hætt, soddañ vel þu athuga ætt, þad eykur Gledi Hiartanu þrætt.

11. Kongs Tign þijn Jesus eilijf er, aller þiag-ia sijn Vølld af þier, Hofdingiar hier um̃ Heim, þu lienar, giefur, laænar þeim Løndiñ Rijki Metord og Seim.

12. Fyrir þ ñ Krapt og Frelsis Hond, Forsvara Kongar Rijke og Lønd, sem er þeim undir lagt, eñ moti Diøfli og Daudans Makt dugir eingin Hofdingia Pract.

13. Þu hefur Sigrad Synd og Deyd, sialfañ Diøful og Vijtis Neyd, hardir eitt herligt Strijd, allañ so þiñ leyster Lyd, Lof sie þier um̃ eilijfa Tijd.

14. Andligt þitt Rijki og eilijft er, Ord Sañleiks þar ræður þornar hier, þiñ Velldis Vøndur sa, Oviui slær mier alla fra, i þeim Krapti sigra eg þa.

15. Eñ fyrst þitt Rijki Andligt var, um̃ þad Heimeriñ sinti ei par, hañ fieñ ei Hofmood siñ, hia þier Jesu Herra miñ, þatadi allañ Goddvilia þiñ.

16. Und-

16. Undrast þvi Sàal mijn ecki þarft, þo Atkast Veralldar Lijdir margt, þar um þier þeinkia ber, ertu nu i Utlegd hier, annars Heims þitt Fødurland er.

17. Sannleika Kongsins Sannleiks Raust, sa þarf ad elska Hræsnislaust, sem er hans Undir-Mann, þvi Slægd og Lygi hatar hann, Hrein trwudum Mystunar ann.

18. Ef þu mijn Saal i Gudi glødd, gyrnist ad heyra Kongsins Rødd; giættu þa giørla hier, hvad boda Drottins Pionar þier, þeirra Kienning Raustin hans er.

19. Ransaka Saal mijn Ord þad ert, ad verdur spurt hvad hefur þu giørt, þa Herrann helldur Doom, hialpar eingvum Hræsnin tom, hrein sie Trw i Verkunum fr m.

20. Enn sokum þess þu ei saklaus ert, sialfur spyr þig hvad hefur þu giørt, um hvern umlidenn Dag, Jdran giør og grææt þinn Hag, Guds Son bid þad færa i lag.

21. Allt hef eg Jesus illa giørt, allt þad ad bæta þu kominn ert, um allt þvi eg kvittur er, Allt mitt Lif skal þiona þier, þar til bid eg hialpa þu mier.

## 20, Psalm.

### Umm Aklogun Gydinga fyrir Pilato.

Ton. O-vinnanlig Borg er vor Gud.

Pilatus hafdi prosad nu, Piislarsøk Jesu

ſu gieſna, Klien virdteſt hønum Kongs Tign ſu, þa Chriſtur Sañleik ried neſna, Heims Sañleik heidra lietſt, hæddi Guds Sañleik meſt, Sañindiñ elſka ber, Ord Drottins lættu þier, kiæraſt þo allra Eſna.

2. Jafnott þa ganga Jarliñ ried, til Juda wt ad bragdi, eingva Søk þeſſum Mañi med, mæ eg ſiña hañ ſagdi, Gydingar helldur hart, Herrañ kløgudu um̃ margt, med Ædi, Ogn og Dramb, eins riett ſem Meinlauſt Lamb, Lauſnariñ liufur þagdi.

3. Hañ hefur uppæſt Lydiñ Lands, leingi miøg vijda kiendi, fra Galilæa og ſo til ſañs, um̃ ſijdir allt hingad vendi. Pilatus hugdi hier, hrinda þeim Vanda af ſier, Herodes hafdi þvi, Hirdſtiorn þeim Parti i, til hañs þvi Herrañ ſendi.

4. Fyrir mig Jeſus þoldir þu, Piaaning og beiſka Pijnu, Hiartad gledſt þvi eg heyri nu hrooſad Sakleyſi þijnu, Syndin læ ſaart æ mier, Sok ſañſt eingin hia þier, ſo er Sakleyſi þitt, ſañliga ordid mitt, vid Maaleſni tookſtu mijnu.

5. Løgmaal Drottiñs þa Heſndum hart, hootar mier epter vonum, aptur miñ JEſus anſar ſnart, eingin Sok ſiñſt med hønum, Sakleyſi mitt til ſañs, ſegi eg nu Ordid hañs, eingin Aklogun ſliot, orka ſkal neitt a moot mijnum Pollyndis Pionum. 6.

6. Onytiu Hial og Mælgin mjn, mier til Falls koma ætti, en Jesu Blessud Pognin þijn, þad allt fyrir mig bætti, Skyllda mijn optur er, eptir adbreyta hier, þeigiandi i þijdri Trw, þola, nær lijd eg nu, Porf væri þess eg giætti.

7. Pilatus meinti Mann-vits Slægd, mundi Obrygdul standa, koma vill þvi med Kiærsku-nægd, Kong Herode i Vanda. Kunna þa Aferd enn, allmargir Veralldar Menn. Bid Gud og giæt þijn vel, giarn er Heimur ad Viel, Gaulausum Svikin granda.

8. Krossgangan JEsu þessi þijn, þar fyrer eflaust skiedi, so hvijlast mætti Saala mijn, sætt i eilijfri Gledi, Embættis Omak laungt, opt þo mier finnist strangt, til Lofs og Pocknunar þier, þad vil eg giarnan hier, lijda med liufu Giedi.

## 21. Psalm.

### Um Herodis Forvitni og hvijta Klædid.

Ton. JEsu Christe þig kalla eg ad.

Þegar Herodes Herrann sa, hann vard miøg gladur næsta, af hønum heyrt hafdi, og hellst vill faa, hans Asynd lijta glæsta, Forvitin mørgu frietti ad, Fijsn Holldsins Rapp a lagdi, med bisku Bragdi, Jesus tock ecki undir þad, vid øllum Spurningum þagdi.

2. Margir finnast enn hier um Heim, Herodis Lijkar

Lijkar riettir, Guds Ord er Skiemt og Gaman þeim, sem Gleñs edur nyar Friettir; Forvitnin Holldsins hnysir þraatt i Herrañs leyndardoma, med Fysn ei froma, aumri Skynsemi ætla ofbæatt, alldrei til Skilnings koma.

3. Mañvits Diupfindni og Menta Glis; marger þa vilia reyna, ad Ordi Drottins þeir giora Gis, Gaman lofligt þad meina, Varastu Saal mijn Vijtin reynd, vird þu i hærsta Gilldi, þa myklu Milldi, alvarliga med goodre Greind, Gud vid þig tala villdi.

4. Gud giorir ecki ad gamni sier, Glæpamoñum ad hoota, Kallsmælgi honum og eingin er, ad þu megir Mykun hliota, Audmiukliga med allri Gæt, aldrei um̃ slijkt ad ræda, og fleiri fræda, eñ af þier heyrast alldrei læt, Ord Drottiñs skulir þu hæda.

5. Heyri eg um̃ þig miñ Herra rædt, i Hialpræðis Ordi þijnu, allt syniſt mier þa bwid og bætt; Bolid i Hiarta mijnu, i Sacramentenu sie eg þig, so sem i Lijking skiærri, med Nærd mier nærri. O hvad gledur su Asynd mig, eingin fiñst Huggun stærri.

6. Herodis Fysn var Holldlig su, hañ vied Forvitni giña, Eñ mijn Saala af Ast og Trw, Andvarpar þig ad fiña, Lofsamlig er su Lukustund, þa lijt eg þig Herrañ þijñi, i þiñi Prydi, gief mier loksins þañ Fagnadar fund, þo fyrst um̃ siñ hier bijdi.

7. Pad kieñir Herrañs Pognin from, þar næst i añañ

i añañ maata, hañ vill ei sijnum Helgidom, fyrir Hunda kasta læta, Drottiñ forsmaaer Drambsamt gied, diarfliga margs þo freisti, og frekt sier treysti, Hugstolltum nidur hrinda ried, hogværa Saal vid reysti.

8. Herodes og hans Hoffolk lijtt, uñ Herrañ ackta villde, færde hañ i eitt Fated Hvijtt, Forsmaan þad heita skylldi, til Pilatum sijdan sendur var, so komst i Fridarstille, sa Offsiñ illi, Drambsøm Ofundin ædur bar Ovinskap þeirra æ milli.

9. Hvijtt Klædid giordi Haadung hier, Herrañ miñ Jesu sæti, Dyrdar Skrwda so skeinktir mier, skynandi Guds Riettlæti, Sakleisis Merkid þetta þitt, þijns Fodurs Glæskan hreina, þa þeckti alleina, hañ sier og prosar Hiartad mitt, hvad sem Illgiarnir meina.

10. Heilaaga Saalna Hoopur skiær, a Himnum med skickun frijda, til Heidurs hier JEsu Herra kiær, hvijtum Klædum sig skrijda, eins hier a Jordu upp fra þvi, esflaust i Minning slijka, med Roosemd rijka, byrtust Sniooþvijtum Bwning i, blessadir Englar lijka.

11. Veittu Jesu þa Mystkun mier, Meinleysis skrijddur Klædi, þioni eg Taallaust med Trygdum þier, i Trw, von og Polinmædi, Riettlætis skrwda Skartid þitt, skyni æ Saalu miñi, þo Lijf hier liñi, eins lattu Holldid eñeñ mitt, Afklædast Pæwoskn siñi.

12. Forlijkast giordu Fiandmeñ tveir, þa forstu þar Jesu milli, Eg veit mier gafstu myklu meir, Myskun og Fridar stilli, Hia Gudi Fodur so til sañs, siest eingin Reidi leingur, nie Stygdar streingur, Dagliga milli mijn og hans, miñ trwr Frelsari geingur.

13. Hvar sem Ofridur hreyfer sier, af Holldsins Veykleik brædum, milli Christiña Mañа hier, mote Guds Vilia og Rædum, gaktu þar Jesus milli mest, med þijnum Fridar Anda, og varna Vanda, hialpa þu so vier hugsum best, i hreinum Kiærleik ad standa.

## 22. Psalm.

## Um̃ Krossfestingar Hroop yfir Christo.

Ton. Fader vor sem ert i Himnum ert.

Fra Herode þa Christur kom, kallar Pilatus sniøllum Rom, Gydinga Lijd og lios gaf Røk Lausnariñ hefdi eingva Søk, samþyckur væri og sier til þess, sialfur Konguriñ Herodes.

2. Sañliga Drottiñ Saklevsid, sier elskar bædi og styrkir med, Hiarta og Muñur hvers eins Mañs, hlijtur ad þiona Vilia hans, Mælesnid gott fær goodañ Rom, giæt þess mijn Sæl, og vertu from.

3. Sidur Gydinga sa var þa, Sakamañ eiñ þeir skylldu fa, um̃ Paaskatijmañ fra Pijslum frij, Pilatus ætti ad giegna þvi.

J Frel=

J Frelsis Miñing wr Egypto, Alldrei baud Drottiñ soddan þo.

4. Sia til mijn Sal ad Sidvaniñ, siist megi villa Huga þiñ, Fordastu honum ad fylgia hier, framar eñ Guds Ord leifir þier, Good Meining engva giorir stod, gillda skal meira Drottins Bod.

5. Pilatus Judum sagdi so, siaid nu gløgt um̃ Koste tvo, Eg byd hier Jesum ydur fram̃, eda Mordingiañ Barrabam. Hañ meinti ad yrdi hellst med þvi, Herrañ fra Dauda giefiñ fri.

6. Þu sær nu gløgt af þessu sied, þar sem Drottñ er ecki med, i Verki Asormi og Vilia Mañs, verda til einskis Radin hañs, Sierviska Holldsins svikul er, so sem Pilatum skiedi hier.

7. Aftermeñirnir allra fyrst, ofkudu ad Drottiñ Krossfestist, Almugañ so i añañ stad, eggiudu mest ad bidia um̃ þad, Barrabas Urlausn skyllde skie, skileñ Jesus fra Lijfe sie.

8. Veralldar Dæmin varast skallt, vogadu ecki ad giora þad allt, sem Hofdingiarnir nu hafast ad, þo Heimureñ kalli losliegt þad, Ef Blindur, leider Blindañ hier, badum þeim hætt vid Falli er.

9. Hver þig eggiar a Jllverk bræd, alldrei gacktu med þeim i Rad, viñ þu þad ei fyrir Metord Mañs, ad missa Guds Nad og Vinskap

hans, hverigur aññars bæter Bol, þo bæder rate i Straff og Kvøl.

10. Yfermoñunum er þvi vandt, Undersaatarn er hnysa Grant, eptir þvi sem fyrir Augun ber, audnæmast þo hid Vonda er, Hvad Høfdingiarner hafast ad, hiner ætla sier leifest þad.

11. Jll Epterdæmi a alla Grein, eru samlijkt vid Mylnu stein, Vilier þu vera af Faari frials, festu hañ alldrei þier vid Hals, i Guds Otta fra þier Glæpum hrind, Good vertu ødrum Fyrirmynd.

12. Hwsfrw Pilati holl gaf Raad. Hefde hañ betur ad þvi gaad, Goodar Kvinnur þess giæti mest, giarnan æstundi Dæmin best, Abigael fieck Æru og Sæmd, Jlla Jessabel verdur ræmd.

13. Set eg þad nu i Siñe mier, Sæti Jesu ad giæta ad þier, Allir hroopudu allt um kring, yfir þig Dauda og Krossfesting, sem Lamb meinlausast þagder þu, þar af stendur mier Huggun tru.

14. Løgmaalsins Bølvan bitur og sterk, banvæñ Diofull og øll mijn Verk, þo hroopa vilie nu hver fyrir sig, Hefnd og Fordæming yfir mig, nyt eg miñ Jesus þijn i þvi, fra þeirra Kløgun verd eg frij.

15. Asellis Domsins ogna Hrop, ytstu Myrkrañá Vein og Op, alldrei mun koma ad Eyrum mijn, Eyrun blessud fyrst heyrdu þijn, Kall og Hæ-reysti kriingum sig, fra Kvøl og Angist þad frelsar mig. 16. Hroop-

16. Hroopar nu yfir mier Himin og Jord, Helgun, Frid, Raad og Sættargiord, hvert helldur eg geing wt eda inn, i þijnu Nafne Jesu minn, Bænar hroop mitt i hreinni Trw, Himneskum Gudi þocknast nu.

17. Enn þier til Heidurs allann tiid, Einglar Drottins og Christnin frijd, Hroopar nu bædi a Himni og Jord, Hosanna, Lof og Packargiord, Amen segi og uppa þad, Ond mijn Gladvær i hverium stad, Amen.

## 23. Psalm.

### Umm Christi Hwdstryking.

Ton. Oss læt þinn Anda styrkia, rc.

Pilatus Herrann Hædsta, Hudstrykia lætur þar, Nakinn vid Stolpann stædsta, streingdur þa Jesus var, Strijdsmenn med Svipum hrøcktu hann. Sæl mijn hier siar og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta Holldid frijda, fra Hvirfli Ylium ad, Drottni vard sart ad svijda, svall allt af Benium þad, hver hanns Lijkama Limur og Æd, af Saxum sundur flackti, su Hirting miog var skiæd.

3. Blessadur Drøyrinn dundi, Drottins Lijfs Ædum wr, sem Regn þad hradast hrundi, Himins i dimmu Skwr, Blænadi Holld, enn Bolgnadi Und, Sonur Guds sart var kvalinn, Saklaus a þeirri Stund.

4. Jeg var sem Fiotrum færdur, Fangelsi þungu i, a Ond og Samvitsku særdur, Syndin mijn olli þvi, su Daudleg Saalar Soottin hier, um̃ hveria Ed wt sier dreifdi, eckert sañst heillt a mier.

5. Soipan Logmaalsins lamdi, Lijf og Saal helldur frekt, Ottiñ Kvalaña kramdi, kominn var eg i Sekt, Ban-vænligt ordid mitt var mein, Hiartad af Hrygdum stundi, hvergi fieckst Lækning nein.

6. Saarstu þa Jesu sæli, Saar mijn Obærilig til Lausnar þijnum Præli, þvi lietstu binda þig, gieckst so undir þa Grimdar Kvol, ad eg kvittadur yrdi, vid eilijft Hrygdar Bol.

7. Siukdom miñ sialfur barstu, so vard eg heill med þvi, Hormungum hladiñ varstu, fra Hrygdum er eg nu frij, Hegning þu fieckst, so hefdi eg Frid, Beniar þijnar mier bættu, Bot su þar ætte vid.

8. Hiartad vill Hrædslan kreinkia, med hordum Sorgar stijng, þegar eg giori ad þeinkia, um̃ þijna Hwdstrykting, Avij eg gaf þar Efni til, þu eiñ gallost Pinosku miñar, þess nu eg idrast vil.

9. Poi fell eg nu til Foota, Frelsariñ Jesu þier, lattu mig Nafns þijns niota, Naad og Vægd syndu mier, eg skal med Hlydni heidra þig, nu og um̃ Eilijfd alla, þa huggar þu Herra mig.

10. Gledstu mijn Saal, þig grædde, Guds Sonar Heilagt Blod, þo Synd og Sorgin mæddi, siaa

siaa hier er Lækning good, Naad fyrir Reidi nu er vijs, Brot Prælsins Herrañ bætti, bar þvi siins Fodurs Hrijs.

11. Skoda þu skylldu þijna, skijrliga Saal mijn nu, Sonuriñ sig liet pijna, so læknud yrdir þu, Heilbrygd þiona þu honum riett, med Trw Hollustu og Hlydni, haf gaat aa þiñi stiett.

12. Pocknust honum ad þiaka, þitt Holld Or-kumslum med, þijdlega þvi skallt taka, Polin-modt Hiarta gied, aa sier Drottiñ og elskar best, Launnara ad lijkiast þijnum, Lof er þier allra mest.

13. Eckert maa soma sijdur, sijkaatur Prælliñ er, þa Herrañ Harmkvæli lijdur, haf slijkt i miñi þier, Hrygdar mynd hans er Heidur þiñ, laat mig þad læra og hallda, liufasti Jesu miñ, Amen.

## 24. Psalm.

### Uñ Purpurañ og Þyrnikoronuna.

Ton. Til þijn heilagi Herra Gud.

Allvirkiar Jesum epter þad, iñ i Pijnghwsi id leiddu, Afklæddu fyrst og fliott þang-ad, Folkid allt koma beiddu, Purpura-klædis forna Flijk, faast maatti valla Haad-ung slijk, yfir hans Beniar breiddu.

2. Helgunar Klædid hafdi eg mist, hlaut þvi nakiñ ad standa, Adam olli þvi allra fyrst, Arf liet mier hañ til Handa, Syndaña Flijk eg færdist i, Forsmaan og Mijnkun hlautst af þvi, med hverskins Haaska og Vanda.

3. Burt tok Jeſus þa Blygdun hier, Beran̄ þviliet ſig pijna, Klettlætis Klædnad keypti mier, kan̄ ſa fagurt ad ſkyna, Athvarf mitt jafnan er til ſan̄s, under Purpura Kaapu han̄s, þar hyl eg Miſgiørd mijna.

4. Þyrni-Koronu þungri þeir, þreyngdu ad Herran̄s En̄i. Baalellde heitum brendu meir, Broddar ſviðandi i hen̄i, Augun hans bædi og Andlit med, allt af Blodinu fyllaſt ried, ſlijkt trwe eg Kvala kien̄i.

5. Fyrir Ohlydni Adams var, øll Jordin lijſt i Ban̄i, A-voxt þvi ſlijkan̄ af ſier bar, Ord Guds true eg þad ſan̄i. Þeſſum Bolvunar Þyrni-Krans, þreingt var ad Hofdi Lauſnarans til Huggunar hrelldum Man̄i.

6. En̄ Jeſu Hlydni aptur hier, allri Jord Bleſſan færir, heilnæman̄ Avoxt hun þvi ber, hveria Skiepnu vel nærer, fyrir Giæſkun̄ar Giorning han̄, Goſgi, Loſi og priiſi han̄, hvad ſig um̄ Heimin̄ hrærir.

7. Bolvan mier yfir Hofdi hieck, hootud i Logmaals brædi, En̄ Jeſus hana undir gieck, ſvo aptur eg bleſſan nædi. Gud min̄ Coronu gaf mier þar, Giæſku og Dyrdar eilijfrar, hier og a Himnum bædi.

8. Reyrſtaf hønum i Hønd med Spie, Hirdſtiorans Prælar feingu, heilſudu Kongi og krupu a Knie, Kalls Ord a vijgſl þa geingu, Reyrnum hrøcktu um̄ Høfud hans, hræktu i Andlit Lauſnaran̄s, med Kvalakappi ſtreingu.

9. Þa þu gengur i Guds Hwß iñ, giæt þess vel Saal mijn froma, hvad þu þar ecki Herrañ þiñ, med Hegdan Lijkamans toma, Beygdu Hollðsins og Hiartans Knie, heit Bæn þijn Astarkvedia sie, Hræsnin mun sijst þier soma.

10. Sialfs mijns Verdskulldan sie eg hier, sodðañ ætti eg ad lijda, uñ Eilijfd þa sem alldrei þver, med Ogn og sarum Kvijda, hefdi mier ecki Hormung þijn, Hialpad JEsu fra þeirri Pijn, Blessad sie Nafn þitt blijda.

11. Oll þijn Læging er Uppheſd mijn, Astkiæri Jesu milldi, Heidur er mier ad Hardung þijn, hver sem mier nidra villdi, Hoggin sem leidstu hressa mig, a Himnum verd eg nu fyrir þig, metiñ i mesta gilldi.

12. Medan Lijfs Ãnd er i mier heit, eg skal þig Drottiñ prijsa, af Hiartans gruñi i hverium Reit, Heidur þijns Nafns auglysa, fegiñ vil eg i Heimi hier, hlyda og fylgia i ollu þier, lat mier þijna Lidsemd vijsa, Amen.

## 25. Psalm.

### Uñ Utleidslu Christi wr Þijnghwsinu.

Ton. Konung David sem kiende.

Landsdomariñ þa leiddi, Lausnarañ wt med sier, Gydingum Andsvør greiddi, gløggliga og so tier: þier siaid þeñañ hier, sañliga ydur eg segi, Søk fiñst hia hønum eigi, su Dauda Doms verd er.

2. Pa gieck Jesus wt þañin, Pyrni og Purpura bar, sagde: siaid hier Mañiñ, sialfur Domariñ þar, Gydingar gafu Svar, Burt med hañ so þeir segia, sa skal a Krossi deyia, Ost þeirra ein su var.

3. Ord og Affsøkun gillti, eingin i þessum stad; Heiptin so Hugañ fyllti, Hiartad vard forblindad, siidast þeir søgdu þad, liosliga Lijfs strafs krefdi, Løgmaalid, þvi hañ hefdi, giørt sig Guds Syni ad.

4. Riett Log sem ritud fiñast, Raunasærdu Judar hier, oss ber þar a ad miñast, ill Dæmi fordunst vier, Domuriñ Drottins er, hliñ þo med Heiptum klagi, eg hreinañ Sañleik aflagi, siai Valldz meñ ad sier.

5. Pa eg heyri miñ Herra, hversu þu Kvaliñ vart, giørvoll vill Gledin þverra, galldstu mijn næsta hart, þvi eg braut mykid og margt, eñ þa mier Guds spioll greina, gløgt þitt Sakleysi hreina, Hiartad fær Huggun snart.

6. Athuga Saal mijn ættum, wtgaungu Drottins hier, so vid riett miñast mættum, hvad Mysskun hañs veitti þier, hyggium ad hañ wtber, Pyrni-Korunu þietta, þar med Purpurañ lietta, Blaar og Blodugur er.

7. Med Blodskulld og Bølvan stranga, beyskum reyrd Kvala Hnwt, aattum vid greidt ad ganga, fra Guds Naad rekiñ wt, hrakiñ i Heliar swt, Iklædd Forsmaanar Flijkum, frasktosud Drottni rijkum, nakiñ og nidurlwt.

8. O!

8. O! Synd, o! Syndin arga, hvad illt kiemur af hier, O! hverſu Meinſemd marga, maa Drottiñ lijda hier? Pit t Gialld allt þetta er, blindad Holld þig ei þeckti, þ gar þ jn Flærd mig bleckti, Jeſus Myſkuni mier.

9. Eñ med þvi wt var leiddur, alſærdur Lauſnariñ, giordiſt mier Vegur greiddur, i Guds Naadar Rijki iñ, og eiliſt Lijf aiñad Siñ, Blodſkulld og Bolvan mijna, burt tok Guds Sonar Pijna, Dyrd ſie hier Drottiñ miñ.

10. Utgeng eg ætijd ſijl an, i Trauſti Frelſarans, undir Blæ Himins blijdan, bleſſadur vijſt til ſaũs, nu fyrir Nafnid haũs, wtborid Lijk mitt lidid, legſt og Hvijliſt i Fridi, Saal fer til Sælu Rañs.

11. Dyrdar Coronu dyra, Drottiñ giefur mier þa, Riettlætis Skrwdañ ſkijra, ſka l eg og eiñin faa, Uppriſu Deginum aa, hærſ lum Heidri tilreiddur, af heilogum Englum leiddur i Sælu heim ſialſum hia.

12. So munu Guds Englar ſegia, ſiaid nu þeñañ Mañ, hvern allſkyns Eymd ried beyia, aadur i Heimſins rañ, opt var þa hrelldur hañ, fyrir Blod Lambſins blijda, bwiñ er nu ad ſtrijda, og ſælañ Sigur vañ.

13. Pa muntu Saal mijn ſvara, ſyngiandi ſegrum Toon: Lof ſie mijnum Lauſnara, Lamb Guds a hædſta Troon, Sigur gaf ſijnum Pion, uñ bleſſadar Himna Hallir, honum ſegium vier allir, Heidur med ſætum Soon.

14. Son Guds eittu med sann, Sonur Guds Jesu minn, Son Guds Syndugum Mann, Sonar Arf skeinktir þinn, Son Guds einn Eingetinn, Syni Guds syngi ejlatur, sierhver lifandi Madur, Heidur i hvert eitt Sinn, Amen.

# 26. Psalm.

## Samtal Pilati vid Christum.

Toon. Hædsti Gud Herra Milldi.

Hier þa umm Guds Son heyrdi, Heidinn Lands Domarii, hann spyr (því hrædast giørdi) hvada'n vor Drottinn sie, enn Jesus þijdur þagdi, þad og vel makligt var, Pilatus brratt ad Bragdi, byrstist, og aptur sagdi, Villt þu ei veita Svar?

2. Mijn., er þad mætttu jæta, Magtin so Tignarlig, Jeg mæ vel lausann læta, lijka Krossfesta þig, Jesus svarar og seger, siist cættu Valld a mier, ef þier væri þad eigi, ad ofan giefid so meigir, heidri þeim ha'llda hier.

3. Sa hefur Synd enn meiri, er selldi mig þier a Hønd, Pilatus hygg eg þad heyri, hann grundar Mælin vønd, giørdi stras Grida ad leita, gæfu Prestarnirars, Vægd ef þessum villt veita, vijst mætttu ecki heita, kiær Vinur Keysarans.

4. Heidingiar hallda giordu, Hiærgudir þeirra sem, Born ættu allinn a Jordu, eins og Holldleg-ir

ir Meñ, hañ ottast hier ef væri, Herrañ Godaña Kyns, hugdi þvi hellst ad bæri, hyggiliga frañfæri, Ransokn Riettdæmisins.

5. Skærgod siñ Heidnir hielldu, hafandi i mestu akt, Forgiefins Hug siñ hrelldu, hræddir vid þeirra Magt. O! hversu framar ætti, eiñ sierhver Christiñ Mañ, ottast Drottiñs Almætti, med ærst og Blygdunar Hætti, sem stolltum steypa kañ.

6. Af storri Magt sig ried stæra, stolltur Pilatus hier, riett Meal til Rangs ad færa, reiknade leifiligt sier, Kañ vera margañ megi, Meining su villa þraatt, þo Login brioti og beigi, bañad sie þeim þad eigi, fyrst Valld þeir hafa haatt.

7. Gud er sa Valldiñ giefur, giæti þess ædri Stiett sitt Lient hver eiñ hefur, hier af Drottni til sett, Hañ liet þig Heidur hliota, heidrast þvi af þier vill, Virdingar vel maatt niota, eñ varast Drambsemi liota, Rog og Rangindiñ ill.

8. Yfer valld eiñ Gud sendi, Under-meñ giæte þar ad, Sverd Drottiñs hefur i Hendi, heidra skulum vier þad, Hlydugir Fridi hallda, Hlijfd og Forsvari naa, þverlyndis Priotskan kallda, þungligri Hefndar giallda, ad viisu sier vænta maa.

9. Eins sem hver eiñ misbrytur; epter þvi straffast hañ, hardare Hefudir hlijtur, hiñ sa meira til vañ, þeim mun ei Plaagan þverra, sem Priotskast i Synda Root, sa Pion a Von

hins

hins verra, sem Vilia þeckir siins Herra, þo giorir hvert a mot.

10. Vardveiti Valldsmeñ alla, vor Gud i siñi Stiett, so varest i vondsku ad falla, vel stundi Løg og Riett, hinir i Hlydni standi, hver so sem skylldugt er, hrein Trw og helgur Vandi, halldist i voru Landi, Amen, þess oskum vier, Amen.

## 27. Psalm.

### Pilati Samtal vid Gydinga a Domstolnum. Ton. Skapariñ Stiarna.

Pilatus heyrdi hootad var, hønum Keysarans Reidi þar, wt leiddi Jesum añad siñ, upp setst þegar a Doomstooliñ.

2. Gydingum siidan sagdi hier, siaid þar ydar Kongur er, þeir badu tak þeñañ burt fra oss, bradliga lat hañ deyia a Kross.

3. Skal eg Krossfesta Kong ydvarn? kallar Pilatus Hædnis giarn, eingvañ Kong segia þeir aptur hier, utan Keysarañ høfum vier.

4. Gudspialls Historiañ hermir fra, heiti sa Stadur Gabbatha, hafa Steinstræti þydir þad. Þar mattu Saal mijn giæta ad.

5. Vey þeim Domara er veit og sier, viist hvad uñ Malid riettast er, viñur þad þo fyrir

ir Vinskap Mañs, ad vijkia af Gotu Sañleikañs.

6. Pilatus Keysarañs hræddist Heypt, ef hønum yrdi ror Volldum steypt, þetta sem helst nu varast vañ, vard þo ad koma yfir hañ.

7. O vei! þeim sem ad oriett Log, umgangast og þau tijdka miog, Sañleiknum meta sitt gagn meir, Svivirding Drottni giora þeir.

8. Huga snij eg og mæli mijn, miñ godi Jesu eñ til þijn, Pilatus Kong þig kallar hier, Krossfesting Judar oska þier.

9. Vijst ertu JEsu Kongur klaar, Kongur Dyrdar uñ eilijf aar, Kongur Englañа, Kongur vor, Kongur Almættis Tignar-stor.

10. Po stoodstu bundiñ þar fyrir Dom, þo leidstu Hrop og Kvala Rom, af-segia giordu aller þig, undrar storlega þetta mig.

11. O Jesu þad er Jaatning mijn, Jeg muni uñ sijdir niota þijn, þegar þu Dyrdar Drottiñ miñ, Doomstool i Skyum setur þiñ.

12. Frelsadur kiem eg þa fyrir þiñ Dom, fagna dar sælañ heyri eg Rom, J þijnu Nafni utvalder, ut valiñ kalla mig hia sier.

13. Kong miñ Jesu eg kalla þig, kalla þu Præl þiñ aptur mig, Herratign eingva ad Heimsins sid, helld eg þar mega jafnast vid.

14. Hæsa Steinstrætid Heimsins sleipt, hefur mier opt i Vanda steypt, þangad liet Jesus leida sig, so Lijknin hañs komi yfir mig.

15. Jesu þijn Christni kijs þig nu, Kongur hennar

ar eiñ heitir þu, Stiorn þijn heñi so halldi vid, ad Himneskum naai Dyrdar Frid, Amen.

## 28. Psalm.

### Um̃ Pilati Handaþvott og Doom.

Ton. Nu bid eg Gud þu naadir mig.

Pilatus sa ad søñu þar, sijn Raad maattu ei gillda par, Upphlaup sier bæid hræddist hañ, hugde ad stilla Vanda þañ, fullnægia villde Folksins Boon, fat skyllde Jesus Daudañs tioon, Sañleika eingvum syñti meir, so dæmdi allt sem beiddu þeir.

2. Hendur i Vatni þa nam þvo, þar næst vid Juda mællti so: sialfir um̃ ydur siai hier, saklaus vid Riettlaats Blod eg er, allur Almuginñ uppa þad, andsvarar greitt i þessum stad: hañs Blood (þo hañ nu kvelie Kross) komi yfir Børniñ vor og oss.

3. Pilatus hafdi proofad þar, Pijslar Sak Drottiñs eingin var, fyrir og eptir eins tied hañ, Urskurda Jesum saklausañ, þo mot Samvitsku siñi þvert, sialfur viliandi dæmdi bert, Gud gieff ad Yfervolldiñ vor, varist þau Dæmiñ Glæpa stor.

4. Hvad margur nu i Heiminum, hier fyrir lastar Pilatum, sem þo elskar og idkar mest, At hæfi hans og Dæmiñ verst, Ottiñ i Domi opt fær Sess,

Sess, Yferherrarnir niota þess, Almwgans Hrøsun olli þvi, Illgiarnir Skalkar hlaupa frij.

5. Abata von og Vina hoot, Verkin dylia þo fleu liot, lijka kiemur su Fordilld fram, sem forsvarad gietur Barrabam, giefst þa Raunin hvad gillda skal, Gulltungan su sem Achan stal, mæ skie og þiggi Mwtur hiñ, meir eñ Platus þetta siñ.

6. Eg spyr: hvad velldur, Odygd flest, eykst nær Dagliga og fiølgar mest? Umsionar leysi er Orsøk hærst, eigen Gagnsmuner þessu nærst, Myskun sem heitir Skalka skiol, skygnist eptir um saurytt Hool, Ottiñ Logiñ so þvijngar þratt, þora þaug ecki ad liita hatt.

7. Fyrir Folkenu þegar þar, þvodi Pilatus Hendurnar, fyrir Gudi (sier þañ giordi grun) gillda mundi su Afsøkun, Varastu Madur Heimsku hans, hier þo þu villir Sionir Mañs, Almættug Drottiñs Augsyn skiær, allt þitt Hiarta Ransakad fær.

8. Villtu þig þvo, þa þvo þu hreint, Pel Hiartans bædi liost og leint, ein Laug er þar til Edlis good, Idrunar Taar og Jesu Blod. græt þijna Synd eñ set þitt Traust, á Sonar Guds Pijnu efalaust, lat af Illu eñ idka gott, allañ varastu Hræsnis Pvott.

9. Bloods hefnd æ sig og Børn sijn med, Blindadur Lydur hroopa ried, efldist so þessi Oskin kolld, eñ i Dag bera þeir heñar Giølld, Athugagiarn og Ord-var siert, einkum þegar þu

 reidur

reidur ert, Formæling illan finur stad, fast meiga Dæmin uppa þad.

10. Drottin Jesu sem dæmdur vart, Domari kiemur þu aptur snart, Doms Men lattu til Dyrdar þier, Domana vanda riett sem ber, Pvo þu vor Hiortu og Hendur med, hrein Trw vardveiti roosamt Gied, þitt Blood Flecklaust sem floodi a Kross, frelse þad Børnin vor og oss.

## 29. Psalm.

### Um Barrabas Frelsi.

Ton. Eins og sitt Barn, Fadir æst.

Selldi Pilatus Saklausan, Son Guds til Krossins Dauda, Upphlaups madur sa Vijg eitt van, þa Frelsi fan, fieck Lijf en misti Nauda.

2. J Myrkvastofu sa bundin beid, Barrabas trw eg han heiti. Ma hier finast ein Merking greid, um mankyns neyd, miog skijr ad øllu leiti.

3. Barrabas fra eg Fødurs Nid, flestir Lærdir Men þydi, Adam lijkist þar einin vid, og allt hans Lyd, sem a fiell Daudans Kvijdi.

4. Upphlaups Madur han ordin var, þa Eplid i Mun sier leiddi, sialfs Guds Bodordi synti ei par, og sijdan þar, sig og allt Mankyn deyddi.

5. J Daudans Fiotrum fastur lá, fangin til eilijfs

eilijfs Dauda, allir hañs Nidiar wt i fra, med Eymd og Praa, aattu von Kvala og Nauda.

6. Hier þa Jesu var Helid kallt, af Heidnu dæmt Yfer-Valldi, fieck Adam aptur Frelsid sniallt, og Folk hans allt, sem fagnar þvi Lausnar Gialldi.

7. Nu fyrst eg Adams Nidie er, nær mier geingur þad Dæmi, Saal mijn set slijkt fyrir Sionir hier, og siaadu hier, sañferdugt Lærdoms Næmi.

8. O! hvad opt hef eg aumur giort, Uppreisn mot Drottiñs Anda, Dagliga þvi hañs Bodord bert, so braut eg þvert, mier bar þo i Hlydni ad standa.

9. Mun og ecki vid Mañdraap frij, mijna Saal draatt eg deyddi, ill dæmin gaafust af mier ny, og Naudir i, Naungañ þar med leiddi.

10. O-fraægur er eg ordiñ mest, allar Skiepnur þad saña, faaraadum eckert Forsvar siest, Faangelsid best, fyrir þvi hlijt eg kaña.

11. J Myrkvastofu eg bundiñ bijd, Bolvan Lögmaals mig hrædir, dapurt naalægist Daudans Strijd, og Domsins Tijd, Dagliga Sorgin mædir.

12. Heyri eg nu þañ Hialpar Rom, ad hafir þu Jesu milldi, fyrir mig lidid Lijflaats Dom, þiñ Lijknin from, lausañ mig kaupa villdi.

13. Su heilaga Aflausn, Hrygd og Swt, af Hiarta mijnu greidir, Syndaña leysir Hleckia Hnut, og hier næst wt, wr hordu Faangelsi leidir.

14. Hvad Dauda saknæmt sæst a mier (sodd-an eg Myskun þecki) til Dauda allt var dæmt a þier, miñ Drottiñ hier, Dominum kvijdi eg þvi ecki.

15. Lijf mitt og Saal þig Lofar nu, leist fra Daudans Fangelsi, eg lifi eda dey, þad er mijn Trw, Obrygdul su, i þijnu Jesu Frelsi.

16. Himneskri Paaska Hartijd a, hef eg nu þess ad bijda Myrkvastofuñi frelstur fra, eg fagna þa, i Flocki Utvaldra Lyda.

17. So er nu Barrabas Ordiñ frij, Adam og eg hans Nidie, hver Christin Saala Helmi i, vorn Herra þvi, Heidri, Lofi, tilbidie, Amen.

## 30. Psalm.

### Um̃ Christi Krossburd.

Ton. Tunga mijn af Hiarta Hliode.

Stridsmeñ Christ wor Kæpu færdu, og klæddu hañ sijnum Bwoning i, sollnar Undir saart vid hrærdu, þær svidu og blæd-du uppa ny, a blessudu sijnu Baki særdu, hañ bar siñ Kross og mæddist þvi.

2. Skiedi so a samri stundu, Simon nockurn bar þar ad, Framandi Madur gieck um̃ Grundu, gripu Judar hañ i stad, Krossinum a hañs Herdar Grundu, hañ giecksit naudugur undir þad.

3. Þeir sem (Saal mijn) Syndir dryia, Sam-vitskuñe þvert a moot, Undir Drottiñs endur-

nya,

nya, ef ecki giora a Kostum Boot, vid skulum fra þeim Flocki flya, og Fyrergiefningar bidia af Root.

4. Uppa Heimsins Opackleti, er hier Dæmi liost til sans, margan læknadi Son Guds sæti, Siukan medal Almwgans, nu var ei nein sem Bolid bæti, og bæri med honum Krossinn hans.

5. Simon badi og Syni hans barda, sialf hier nefnir Historian, Gudhræddur skal niota Narda, og Nidiar margir eptir hann, Myskun semd vid Menn fararda, minnast Gud og launa kann.

6. Framandi Madur mætti Christe, med honum bar hans þunga Kross, Hier mæ finna hvern þad lyster, hreina Pijding uppa oss, Gydinga Folk þa Guds Nard miste, gafst Heidingium Dyrdar Hnoss.

7. Synda Undir ysast mijnar; opt a hverri stundu nær, Samvitskunnar Sorg ei dvijnar, Svida meinid illa grær, Blessadar Jesu Beniar þijnar, bid eg mylti og lækni þær.

8. Þesse Krossins þunga Byrde, hier var Drottinn logd a Bak, so Fyrermyndan fylld su yrde, þa Fornar viden bar Isaach, Sa þinn gangurenn Sorgar styrde, af Saalu minne took Omak.

9. Minnist eg a Piarning þijna, þig su mæddi Byrdin strijd, sanliga fyrir Saalu mijna, sodan leid þiju Giæskan blijd, vegna þess mier virdstu ad syna, Vorkunsemi nær eg lijd.

10. Holld er tregt miñ Herra milldi, i Hørmungunum ad fylgia þier, þo eg fegeñ feta villdi, Footspor þijn sem skylldugt er, Vilieñ miñ er i veyku gylldr, þu verdur þvi ad hialpa mier.

11. Elsku Gied so þitt eg þecki, þiaadum villtu syna lid, laattu mig Drottiñ einañ ecki, i Anaud miñi, þess eg bid, Nafnid mitt, þo Naudir hnecki, Naad þijn blessud kañist vid.

12. Komir þu undir Krossiñ straanga, Christin Saala giært þess hier, ef Holldid tekur ad møgla og maanga, miñstu hver þijn skylldan er, laattu sem þu sicaair ganga, sialfañ Jesum undan þier.

13. Undir Krossi Jllvirkiaña, alldrei hier þig fiña laat, varastu Glæpi vondra Maña, a Verkum þijnum haf þu gaat, Jdka Bæn og Jdran saña, elska giarnan Hoof og Maat.

14. Haf þu Jesu mig i Miñi, Mædu og Daudans Hrelling stiit, Born mijn hia þier Forsion fiñi, fra þeim øllum Vanda hritt, laattu standa a Lijfs Bok þiñi, lijka þeirra Nøfn, sem mitt, Amen.

## 31. Psalm.

### Predikun Christi fyrir Kviñunum.

Ton. Sa frials vid Logmaal fæddur er.

Folkid sem Drottni fylgdi æt, fylltist margt Angre Hørdu, Kviñurnar grietu saart med Svæt, sem hañs Kvøl aumka giørdu.

2. Sneri til þeirra Son Guds sier, sagdi þa Herrañ mætur: Graati þier ecki yfir mier, O! Jerusalems Dætur.

3. Sonu ydar og egin Eymd, eflaust þier graata megid, naalgast su Tijd sem nu er geymd, nær þier harmandi segid.

4. Sæl nu Obyrian Barnlaus er, og Briost þaug ei sogin vooru, hrynie yfer oss Halsarner, Hædir og Fiølliñ stooru.

5. Ef giørt er so vid þad græna Trie, gieta hver til þess nædi, hvad hid þornada þa mun skie, þad trw eg Jesus rædi.

6. O! hvad Veralldar Virding er, vollt og svikul ad reina, giæt þess mijn Saal og siaa þu hier, sañprofad Dæmid eina.

7. A Paalma Suñudag sialfur iñ, Son Guds i Borg nam rijda, Astvinir hañs þad sama siñ, sungu Lof aan alls Kvijda.

8. Faam Døgum sijdar sialfur wt, særdur med Kross nam ganga, þad hlutu hans Vinir ad siaa med Swt, Sorg, Hiartans baaru stranga.

9. Hafi so verid vollt og flaa, Verolldin Herra sijnum, hvers maa sier vænta Prælliñ þa, þess giæt i huga þijnum.

10. Þeim sem hun bydur Blijdleik siñ, bwin er Sorgin mesta, hirtu þvi alldrei Huga þiñ, vid hana mijn Saal ad festa.

11. Sañlega skylldugt segi eg mier, saara þa Kvøl ad graata, sem Drottiñ Jesus þungt ad þier þreyngdi i allañ maata.

12. Samt er þier ecki þient med þvi, þott eg þig aum'a villdi, eilijfa Haatign ertu i, Uppshafiñ Jesu milldi.

13. Þar max nu helldur aukast af, Angur Samvitsku miñar, Ordsok eg til og efni gaf, allrar Hormungar þiñar.

14. Erfidi hef eg aukid hier, ofþungt med Syndum mijnum, Glæpaña sem eg giordi hier, gaallstu a Holldi þijnu.

15. Hrædist eg mier sie hulin geymd, su Hefndar Pijnan straanga, þvi eg vañ til ad eilijf Eymd, yfir mig skylldi ganga.

16. Eñ þo gled eg mig aptur vid, Abvrtiñ Kvala þiña, þar af odlast eg Frelsi og Frid, og Forlaat Synda miña.

17. Angistin saar og Sorgarlaat, er Saal hellst þiaadu mijna, snijst i Fognud og fegin-graat, fyrir þa Mykun þijna.

18. Bid eg nu Jesu blijdi þig, sem Boot mier giordir viña, Laat eingvañ giallda eptir mig, Illsku nie Synda miña, Amen.

## 32. Psalm.

### Um̃ Græna og Visña Tried.

Ton: Nu kom Heidiña Hiaalpar.

Greinir Jesus um̃ græna Tried, Gietur hins Visña eiñen med. Vid skulum Saal mijn skoda a ny, skijrañ lærdoom a Maali þvi.

2. Frioofgunar Eykin Vokvud væn, Vel Bloom=

Bloomgud stood med Laufeñ Græn, þegar a Jordu sæst til sans, Son Guds Jklæddur Holldi Mañs.
3. Lijssins Averte Liufa bar, Læknade JEsus Sotternar, fra Diøfli leysti og Daudans Pijn, Dausum gaf Heyrn, eñ blindum Syn.
4. Af hverre Grein draup Hunang sætt, Hialprædis Kieñing fieck hañ rædt, øll hans Umgeingni æstiwdleg, Angradar Sæler gladdi miøg.
5. Gudi var þeckt þad græna Tried, Glødduft Himnar og Jordin med, i hañs Fæding þad vitnast vañ, og vid Jordan, þa skijrdist hañ.
6. Riettlætis allañ Avøgst bar, iñ til Kross Dauda hlydiñ var, Saklausa Lambid Son Guds eiñ, af Synd og Lytum klaar og hreiñ.
7. Po mætti ei þad edla Trie, Angurlaust vera a Jorduñe, Guds Reidi-stormur geysa vañ, gieck þvi Refsingin yfir hañ.
8. Ef þu spyr ad hvad vallda vañ, villdi Gud lata saklausañ, Soniñ koma i Sorgir þær, sem honum var þo Hiarta kiær.
9. Pu skallt vita ad visnad Trie, var Mañkyn allt a Jorduñe, ofan ad Rootum uppþornad, Avøgst Raanglætis færdi þad.
10. Skadsemdar Tried sem skiemde Jord, skipadi Drottins Reide Hørd, upphøggva, svo þad ecki þar, Akrenum sie til spillingar.
11. Vor Jesus Møñum Vægdar bad, viñast maatti ei ad feingist þad, utañ hañ tæke uppa sig, Jllverka Giølldin hryggelig.

12. Herran Iklæddist Holldi þa, hingad kom til vor Jordu a, Visnadri Eik gafst Vokvan good, þa vard wthellt hans dyra Blood.

13. Saklaus þvi leid hañ Sorg og hard, Syndugt Mañkyn so fengi Nærd, hid græna Tried var hraked og hrist, hier af þad visna Blomgadest.

14. Guds Dyrdar Sæti sitt Holld i, Sonurlin mætti ei hefia þvi, fyrr eñ i Heimi harda Neyd, hafdi þolad og Krossins Deyd.

15. O! hvad Mañs Holld er Heimsku fyllt, hryggeliga wr Mæta villt, viliandi i Lostum liggur þad, leikur sier allskyns Glæpum ad.

16. Margir ætla, fyrst ecki strags, Afellur Hefndin sama Dags, Drottiñ þa alldrei muni meir, miñast a þad sem giordu þeir.

17. Þvi gooda Trienu þyrmt var sijst, þurrum Fausk mun þa Bæalid vijst, Hafi Faderiñ hirt siñ Son, Hefndar mun Prælliñ eiga von.

18. Ef ad nu Milldin Astwdlig, Ohegnda Saal mijn lijdur þig, hañs Polenmædi halltu hier, Hialprædis Medal giefid þier.

19. Visnad Trie eg ad vijsu er, Vægdu Riettlætis HErran mier, Giæskuñar Eykin Græn og fijn, geymdu mig undir Skugga þijn.

20. Von er ad mier sie Mootkast vijst, mun eg Umflya Daudañ sijst, Holldid mar ei fyrir utan Kross, Eignast a Himnum Dyrdar Hnoss.

21. Tæpti eg mijnum Trwar Staf, a Tried sem

sem drypur Hunang af, Sioon Hiartans ollu Angri i, upplysest nær eg smacka af þvi.

22. Þegar mier gaanga Þrautir nær, þier snw þu til mijn Jesu kiær, Hiartad hresse og Huga miñ, Hiinneskur Naadar Vokvi þiñ, Amen.

# 33. Psalm.

## Uñ Christi Krossfesting.

Ton. Koning David sem kiendi.

Kom loks med Krossins Byrdi, Christur i Hausa-stad, Orþiaadur fraa eg hañ yrdi, Edik Galli blandad, hønum þeir hielldu ad, Drottiñ vor Dyrdar milldi, Drecka þo ecki villdi, þa hañ smackadi þad.

2. Fals undir fogru Maali, Fordilldar hræsnin ber, Vinaatta temprud Taali, og Trwarlaus Jdrun hier, Edik Gall-blandad er, soddañ Swrdreggia Vijni (þo sialft glyslega skyni) Herrañ hrinder fra sier.

3. Þad tek eg vijst til Þacka, þa þu villt Drottiñ kiær, swrt med þier sialfum smacka, sie þijn Myskunin skær, i hverre Neyd mier nær, Gallbeyskiu Volvaniñar, og Bikariñ Heyptariñar, burt tak þu fra mier fiær.

4. Nakiñ Jesum a Jordu, Judar Krossfestu þar. Med Heiptar Siñi hordu, Hendur og Fæturnar, teigt allt og togad var, gieck so Jarn-Gaddur nistur, giegnum Loosa og Ristur, Skiñ og Bein sundur skar.

5. Tvegg-

5. Tveggia Mordingia milli, Myskunar Herran hieck, Spaadoomiñ fraa eg so fylli, sem fyrrmeir um̃ þad gieck, Rædir so Ritning þeck: Þion miñ sa eiñ wtvaliñ, er med Spillvirkium taliñ, Forsman miøg þunga fieck.

6. Nu eg minñist a næsta, nakiñ þa Adam stood, vid Tried med Hørmung hædsta, Hiarta-Sorg, Bol og Mood, þvi Verk hans voru ei good, Iñvortis Angrid kvaldi, undir Triaanum sig faldi, þess gallt øll Heimsins Þiood.

7. Nu aptur Jesus Nakiñ, Negldur a Triene stood, Þijndur Hwdstrykktur, hrakiñ, Hiartans bar saarañ Mood, þo voru øll Verk hans good, eiñ fyrir eingvum faldist, openberliga kvaldist, þess naut øll Heimsins Þiood.

8. Horfi eg a Hendur þijnar, Herra miñ Jesu kiær, fyrir Misgiørdir mijnar, Meiniñ slijk lidu þær, Blodreyriñ Dündi skiær, Saurgun Saalar og Handa, sem mier komu i Vanda, af hreint med øllu þvær.

9. Fws var eg fram̃ ad hallda, Feril Glæpaña hier, þess Fætur þijnir giallda, þad vard til Lijknar mier, Drottiñ eg þacka þier, fram̃ a Fridarins leidir, Footspor mijn jafnan greidir, hiedan af hvar eg fer.

10. Gud giæfi mitt Holld mætti, med þier Krossfestast nu, fra øllum Illsku hætti, Oft min er Daglig su, miñ Herra þad veist þu, Uppa þad Ønd mijn kyñi, O-hindrud Giæsku þiñi, þiona med þijdri Trw,

11. Eiñ med Illrædis Moñum, allir þig hielldu
þa, sem i Heilagleik soñum, sialfur komst Himn-
um fra, nu eg þess niota mæ, af þvi eg er tot-
valiñ, med odrum Guds Bornum taliñ, þar
treysti eg eflaust a.

12. Jeg mun æ medan hiari, miñast a Krossiñ
þiñ, Heimsins liufi Lausnari, Lijsgar þad Huga
miñ, hvert eg geing tot eda iñ, af iñstum ærstar
gruñi, ætijd med Hiarta og Muñi, segiandi
hvert eitt siñ.

13. JEsu Christi Kvol eina, a Krossinum
fyrir oss skien, sie mijn Saxttargiord hreina, og
Synda Kvittunen, af sialfum Gudi sien, uppa
þad Ond mijn vonar, J Nafni Fodurs og Son-
ar, og Heilags Anda, Amen.

## 34. Psalm.

### Fyrsta Ord Christi a Krossinum.

Ton. Lifandi Gud þu lijt þar a.

Þegar Kvalarar Krossiñ a, feyra vorn Herra
giordu, flatur med Trienu lagdur læ, Lausn-
ariñ nidur a Jordu, Andlitid horfdi i þeim
stad, og Augun hans blessud Himnum ad, hañ
stundi af Angri hordu.

2. Siñ Fadm allt eins og Barnid blijdt, breid-
di mot Fodurnum kiæra, Bloodid dundi og
Tæriñ tijtt, titradi Holldid skiæra, Hier skoda
Madur Huga þiñ, hvad kuñi meira nockurt siñ,
Drottiñ til Hefndar hræra.

[3. Ovin-

